Jakob Jónsson:

# Áldaglaumur.

Ak. 1856.

# ALDAGLAUMUR

kveðinn af

bónda **Jakob** sál. **Jónssyni**

á

Ísólfsstöðum á Tjörnnesi.

---

Útgefandi Ari Jónsson.



---

**Akureyri.**

Prentað í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmis ins, hjá H. Helgasyni.

1 8 5 6.

1. Hugsast mjer að hreifa ljóðum, hírlynd-um til gamans fljóðum, þó varla til þess virð-ist fær, fyrri dögum frá að segja, forðum sem menn áttu þreyja, á láði því nú lifum vær.

2. Skáldin forðum skemmtu lýðum, skynsam-lega á fyrri tíðum, ljeku af vörum ljóðin sling, hylli náðu höfðingjanna, held jeg þetta dæmin sanna, frjettir bárust fold um kring.

3. Sá hefur margt að glósa og greina, gjör sem líða sjá og reyna, mikið hefur á marga lund, áfram skilar alda hringum, allan heiminn jafnt í kringum, líður að vorri lausnarstund.

4. Ef Ísland mætti orð fram stíla, ekki þarf það neinn að týla, sorgarkvæði sæust þar, lifað hefur það tíma tvenna, til má því um síðir kenna, annað er nú enn áður var.

5. Fýsir mig með fáum orðum, fyrðum lands og baugaskorðum, segja það með sanni veit, hvernig hjer hefur hagað tíðum, heilnæmum og líka stríðum, á vatnadróma veikum reit.

6. Allra fyrst um Ísland getur, enskra bóka fornyrt letur, byrjaði prestur Beda það, um landaskipun lagaði ræðu, ljóst um heiminn hvernig stæðu, aptur og fram í ýmsum stað.

7. Eyland lítið eitt þar nefnir, undir norður skautið stefnir, Thyle kallað víst það var, engin nátt um sumar sæist, sól frá vetri og dagur bægist, fyrir það nafn svo fáheyrt bar.

8. Naddodd sumir nefna síðar, nokkurn víking geira hríðar, var sá Noregs fróni frá, vestur þennan vindar hræra, um víðan sjá að grundu færa, og land vort síðan austan á.

9. Í Austfjörðum upp svo gengu, á eitt fjall ef litið fengju, byggð eða reyki' og brautir nær, en sem líkur sízt þeir sáu, svana stefndu' að veldi bláu, fjell við haust á fjöllin snær.

10. Noregs til að nöðru flæða, nefndir menn í hasti æða, Snæland kalla frónið frítt, lofuðu margir grundu græna, gróinn völl og skóga væna, þetta' að heyra þótti nýtt.

11. Það barst millum þjóða og landa, þegna eptir gömlum vanda, frjettum nýjum fljótt er lýst, höfðingjar og höldar smærri, heyrðu þetta nær sem fjærri, um álfu norðurs alla víst.

12. Garðar annar glöggt skal lýsa, geysaði hjer að landi Ísa, Húsa náði hann í vík, skála þar með skötnum setti, skýldi sjer fyrir vindaspretti, um veturinn hetja var hjer rík.

13. Fjalls á milli og fjöru skógur, fannst þá hjer á landi nógur, Garðar þetta gjörla sá, skip um vorið skreytti reiða, skrefa ljet og bylgjur sneiða, lenti Noregs lýðum hjá.

14. Flóki þriðji flaustur þandi, frægur roka burt af landi, blótaði hrafna blakka þrjá, út þeim sleppti ört að sveima, ekki stóð fyrir tveimur heima, einn fló fram þar land vort lá.

15. Við Barðaströndu búsur áðu, bragnar þegar landi náðu, settu upp skála og seiðis-kró, ótal veiddu af þorski þreknum, þar með fiskum stærri reknum, kvikfje þeirra af kulda dó.

16. Fjöll til norðurs fór að kanna, flokkur tjeður heiðingjanna, með hafís litu hulinn fjörð, Ísland síðan lægis ljóma, lundar nefndu brúði óma, þetta nafn ber þessi jörð.

17. Síðan lögðu seggir þaðan, suður beittu skeiðum hraðan, Reykja fyrir náðu ei nes, Hafnarfjörðinn Flóki gisti, frá sjer bát með þegnum missti, vetur þar með vindum bljes.

18. Nærsta sumar njótar skjalda, Noregs gjörðu til að halda, löstuðu sumir landslagið, þórólfur einn af þeirra skara, þetta ljet um munn sjer fara, dágott smjör hjer drjúpi af við.

19. Arnarsonur orku hrestur, Ingólfur kom hingað mestur, frægur reisti bú á braut, vísa þetta sögur sannar, sá var fyrstur landnáms manna, að hans dæmi lýður laut.

20. Sunnanlands sjer bæ ljet byggja, breiðum veggjum kringum skyggja, hauður í blóma háum stóð, hlinir spanga hver af öðrum hingað beittu siglunöðrum, hófu að byggja hnikarsfljóð.

21. Anno Kristí 800, að auk sjötíu og fjögur grunduð, árin teljast áfram rjett, landnám þegar lýðir gistu, á landi voru þeir allra fyrstu, fengu byggð og bæi sett.

22. Leiðarstein sem list má haga, lýðir þekktu' ei í þá daga, stunduðu lítt um stjörnu póls, siðug hlaut því systir mána sævar strikin glöggust lána, á breiðum velli ránar róls.

23. þá var Ísland þeim á dögum, þakið allt með grænum högum, hæðir dalir hálsar fjöll, líka sjórinn líði nærði, lífs uppheldi mörgum tærði, á lukkunni sáust lítil spjöll.

24. Haraldur með hárið fríða, hilmir var þá Noregs lýða, þegar gjörðist þetta hjer, hans ofbeldi hátt nam rísa, hjeldu því að landi Ísa, firðar til að forða sjer.

25. Af dýrum ættum virðar voru, vel flestir sem hingað fóru, kóngum jörlum komnir af, skarann kvenna skart nam prýða, skreytti frónið öldin fríða, báru jötna blómlegt skraf.

26. Laganna sumir lands menn gættu, löngum sundur málin tættu, stundum þó að stæði hætt, Úlfljóts getur undangengi, yfir dæmdi þegnum lengi, hann fjekk manna um hagi bætt.

27. Þingstað settu þegnar fróðir, þessa lands á byggðar slóðir, er sá nærri Öxará, alþing síðan ítar nefna, ótal þangað málum stefna, sem vandi þykir vera að kljá.

28. Fróni skiptu firðar nettir, fjórir eru að tölu settir, landsfjórðungar lýðum hjá, höfðingjar í hverjum dýrir, hjeldu stjórn hjá lýði skýrir, rekka sízt var röksemd smá.

29. Ótal voru hjer orkufyldir, með Íslendingum kappar gildir, Grettir, Ormur og Gunnar mest, þessum nærst gekk Þórður hreða, þróttinn sýndi karlmannlega, smíðaði skála smíða bezt.

30. Þá 60 vetur seggir gildir, setið höfðu hjer orkufyldir, alsett byggð um Ísland var, og aldrei fleira orðið setur, um það saga Landnáms getur, líði og fjenað landið bar.

31. 100 ár í heiðni gisti, hver einn lifði sem hann lysti, Óðinn treystu á og Þór, frömdu morð með fölsku gengi, forblindaðir þegnar lengi, bönnuð iðkuðu blótin stór.

32. Anno þúsund glöggt skal greina, guðs kom hirgað ljósið hreina, höldum boðuð helg var trú, Ólafur Tryggvason með sóma, sendi út hingað lýði fróma, ærið tregt gekk iðjan sú.

33. Ljetu sig nokkrir skatnar skíra, á skapara sinn þeir treystu hinn dýra, aðrir lifðu eins og fyr, öðlings menn þeim ört að gengu, undan þessir láta fengu, þeir hjeldu burt þá hægt gaf byr.

34. Rausnar stórir runnar stála, reistu upp stað í holti Skála, biskups settu breiðan stól, Ísleifur þar allra fyrsti, í biskups háa sæti gisti, við bækur eiga börn ljet ról.

35. Síðan annan settu á Hólum, svo gafst betri völ á stólum, fjórða landsins fjekk sá part, lærdóm góðan lýðum kenndi, loksins þar til dægur endi, fólk þess naut á fróni margt.

36. Gættu fáir guðs að orðum, gekk því flest úr rjettum skorðum, færri dæmi fundust lík; biskupa og blíða presta, bragna pindi vonzkan mesta, óöld sú var rauna rík.

37. Íllsku verk hjer ýmsir frömdu, opt til heljar fólkið lömdu, bæði hús þeir brendu og auð, kirkjur þjáði kvalanna þungi, Kolbeinn var þeim verstur ungi, lík í dreira láu rauð.

38. Full 200 fór svo árin, fjell til jarðar kaldur nárinn, Sturlunga þá stóð hjer tíð, flaut vort land í fögru blóði, filkir þar til veittist góði, linaðist við það langsamt stríð.

39. Hákon hjet sá hilmir þjóða, hollustu menn gjörðu bjóða, rjeði Noregs ríkjum hann, Magnús son hans magtar kenndi, mönnum hingað lögbók sendi, sem bálka marga bera kann.

40. Sæmundur hinn fróði fyrstur, færði hingað vizku lýstur, latínumál á land til vor, ótal hafa seggir síðan, sagðan iðkað lærdóm fríðan, og látið þenna leka spor.

41. Hreinnar trúar háleit vizka, helg sást ei, en katóliska, byggði í manna brjóstum hjer, á fimtánda Sekuló síðar, sendust hingað reglur fríðar, sem Lútherus kenndi að lifa epter.

42. Hallæri um höstugt getur, hljóp óaldar yfir vetur, Gissur Skálholt gisti þá, fjenaður drapst fjúks í önnum, fólkið líka deyði hrönnum, lýðum stór var ánauð á.

43. Stóra plágan grimm í geði, geysa hjer um landið rjeði, birgðist fold með bláum eym, 15 þó að færi án tafar, með fölnað lík til einnar grafar, naumast fjórir náðu heim.

44. Önnur gekk hjer efld með fárum, ekki fullum hundrað árum, eptir þá sem undan fór, kom sú þunga kvalanna byrði, í klæði einu Hvals á firði, missir varð því manna stór.

45. Hökla lýður Hólastipti, hún mest öllum burtu svipti, 20 eptir töldust greitt, sjerhver kirkjum sjö hlaut gegna, svo að þreyngdi nauðin megna, sál og líf var sumra þreytt.

46. Undur stór með ógna fárum, opt hafa skeð sem valda sárum, mótgang ýmsum mönnum hjá, bæði á sjó og breiðu landi, blóði' hefur rignt og líka sandi, lagst hafa þrautir land vort á.

47. Brennusteinn með blossa hörðum, bæði spillti grasi og jörðum, misstu fyrir það margir sitt, Hekla grjóti heitu spúði, hver manneskja af ótta flúði, var þar nærri fáum frið.

48. Jarðskjálftar með jöklaeldi, jafnan margra sinni hreldi, Kröflu nærri og Kötlu gjá, margir biðu skjótan skaða, skemmdir lands og dýrra staða, þar til merki sönn má sjá.

49. Pínings vetur mætti mönnum, mestu hlóð þá niður fönnum, hafís reiðar huldi frón, Færeyja að hafi háu, helluspangir stórar láu, Indíafari fæddist Jón.

50. Hallæri með hryggðar slögum, herra Guðbrands gekk á dögum, 16 þúsund sáluðust menn, þar eptir kom krefðu kvilli, kærra skildi hjóna milli, ótæpt dóu ungbörnenn.

51. Vestmanna hjer var af eyjum, vöskum þegnum, kvinnum, meyjum, rænt í burt en ruplað torg, sumt af fólki sást hjer tekið, svo sem fje til sláturs rekið, fyrir það báru flestir sorg.

52. Halastjörnur, hnettir víga, himins leiddust þrátt um stíga, misst hefur sól og máni skin, sunnur margar sjást í einu, á sumartíma í veðri hreinu, ei eru svoddan undur lin.

53. Fiskar hafa færst úr höfum, föstum settir letur stöfum, rauðum, hvítum, gylltum greitt, skrímsl hjer líka skriðu á söndum, skertust ei af manna höndum, þó við þau stáli væri beitt.

54. Leitt hefur frá sjer loptið orma, langvarandi vestan storma, mæðir fjenað, menn og jörð, bylgjur sjáfar björgum róta, baga fyrir það margir hljóta, skóga höglin skemmdu hörð.

55. Fimmtán bólur fólk hafa þvingað, færst úr öðrum löndum hingað, margt hefur tjónið manna skeð, 18 þúsund ein hjer deyddi, yfir frónið hörmung leiddi, þungri ógn og þjáning með.

56. Flest hefur orðið fjörhafandi, fólk í einu á þessu landi, þrjátíu þrennar þúsundir, þrjátíu og fjórar fæst þá greiddist, fyrir hungri og plágum eyddist, nú eru fullar fimmtígir.

57. Æðri manna ættir stórar, af aðli gefast líkar fjórar, höfðingjar þeim haldast nær, vottast enn á vorum tíðum, vel gáfuðum mönnum þíðum, gengur hægt að greiða þær.

58. Forðum náði frónið prýða, falleg bygging þegna víða, líkur þar til lengi sá, 9 klaustur nú má telja, við 19 sýslur vitrir dvelja, hingað og þangað hauðri á.

59. Kaupmannanna staðirstórir, stiptaðir vóru tuttugu og fjórir, frekar einum finnst þó rír, tvö lögdæmi gjörla grunduð, gefast kirkjur nær þrjúhundruð, sem orðið Guðs við blessað býr.

60. Umbreyting á tímum töldum, tókst hjer upp á þessum öldum, sautján hundruð sagðist þá, um ellefu daga mánuði messur, miðluðu til, en Jón af þessu, gjörði rím sem glöggt má sjá.

61. Höfðingjar með hefðar gengi, hjer hafa stjórnað vel og lengi, lýðum kennt og lifað vel, innan lands sem utan fræddir, embættum mjög háum gæddir, í minni tíð jeg marga eins tel.

62. Gæða skáld hafa gist hjá mengi, getið þeirra verður lengi, sálma, kvæði sömdu og ljóð, hagir meðal hittust lýða, haffær skip sem kunnu að smíða, vóru eins gáfum vafin fljóð.

63. Ísland sýnist elli hnígið, aðfram nær að mestu stígið; viður, grösin, visna og strá, skógar áður skreytt með greinum, skærum grösum blóma hreinum, hólma Garðars hrós barst frá.

64. Norðan til það neyðir harka, neistar Heklu að sunnan slarka, Kötlu að austan kvelur gjá, hafís vestan hylur svæði, hrörnaog kulna landsins gæði, bót finnst seinna bölinu á.

65. Sá sem öllum ræður reitum, og ríkir yfir lýða sveitum, oss álíti alla í náð, sínum hjá oss sannleiks orðum, sjálfur haldi í rjettum skorðum, fólk á meðan finnst um láð.

66. Heiti þess, sem hróður gjörði, hagar skár að fundið verði, lýst skal því fyrir lýðum strax, eins og þess sem ört rjoð glíma, engil við um nætur tíma, fram að morgni dýrum dags.

# Kvæði um Njálu,

ort af

## Ólafi Gunnlögssyni í Svefneyjum 1746.

1. Njálssögu heils hugar, hjer glósum ber hrósa, lagsælust lögmála, ljóst sýnir póst fínan, því angrar þó mengi þjóð flesta, góð vestan hlaut enda hvat fundinu, hel byrgði þel stirða,

2. Njáll hraður, holl ráðinn, heyrendur meir kenndi, lagræður lögfróðar, ljet vaka, getspakur, vinfastur von missti, við feigðar mið teigðist, í brennu ósvinnum, ör dauðans snör nauðar.

3. Skarphjeðinn skörp úðar, skóp hrегginn hóp seggja, níðverkin nauðsterkur, nágoðans á skoðum, eins skýrður, skensorða, skák velur Hák Kela, blóðsekta beið nægtir, bálkrepptur sál sleppti ·

4. Ljet Helgi braut bylgju, bur Njáls hinn kur frjálsi, með Grími móðstamur, mest báru hest lára, tal anra til færir, títt rægðum lítt vægði, holund af helgrandið, hiá brennu sá kennir.

5. Bráð súra beið Kári, böl kundur Sölmundar, trautt vægði, blítt brigðu, blóðþyrstur jóð missti, frí runninn

frá brennu. frægt efndi gnægt hefnda, ann Hi ldi Gunn goldin, griðspjöll í frið höllnð.

6. Sjeð Gunnar siðmenni, sá kundur Hámundar, ljet eikinn útreka, arngeirinn hjarn dreira, menn feldi fannskylda, fjörsekt en ör hnekkti, burtferð svo bert særður, beið angur deyð strangan

7. Ljet stífinn klót kljúfa, Kolskeggur bol seggja, trútt fylgði greitt gildum, Gunnari um brunn þara, útlægur ljót víga, lá sektin á þekktum, lundprúður land flýði, lagskýrður bag stýrði.

8. Bauð Merði knúð korða, kíf Rútur líf þrútinn, má Unnur ei kenna, áttlögðu náttbrögðin, Kauphjeðinn skóp skæður, skarp vitrum, garp bitran, hvekkama fjekk feimu frjáls háð að Njáls ráðum

9. Höskuld ei horsk vildi, holl valinn Koll dala, með þvinga þjóð röngu, þor-takta forakta, Hallgerði heill firða, hann gat og vann hvatur, kóngs mægðir vammis vígðar, vel orkar Melkörku.

10. Ljet þráinn göt glíu, gammreisinn fram þeysa, Hákoni hró launar, Hrapp faldi kapp baldinn, frúr skiptinu skýr hreppti, Skarphjeðinn garp tjeðan, hel barði, böl særðan, blásvellið á fellur.

11. Höskuldi horsk mildum, heit unna sveit kunni, bur þráins rír rægja, rart Mörður hart gjörði, frí saka frá rökum, frjáls sonum Njáls konu, af drepinn í skapi, óreiður þó deyði.

12. Ern Flosi fyrn masið, forðaðist morð staður, Höskuldar horsk vildi, hefnd konan nefnd vona, móð hertur frið firti, frjáls menn í Njáls brennu, sáttfýsinn, sóttlausan sjór æfður stór kæfði.

13. Njáls fóstrinn fals lestrum, frábitinn hávitur, þórhallur þorfullur, þrár stefndi fár hefnda, varg brenna björg bannar, bauð sekt og auðstektir, stakk kaun, en stökk bana, stríð þyngir níðinga.

14. Geir skorar kær Kára, knátt fylgði mátt gildur, Skarphjeðins skörp hviðra, skárst bíta sást nítum, menn særði munn harður, mál eptir Njál keppti, vansáttum von bítti, vægð, frið og nægð griða.

15. Valgarður veil Merði, vann stíla mannfýlan, af vondu íflyndi, ódáða nóg ráðinn, missáttum mas hittinn, mest olli verst hollur, smáð kenndi leið lyndur lú dauðans trú snauður,

16. Bar Mörður fár flærðar, forsmekk en þor kvekkja, mest æfði ókrafður að svikja skaðríkur, manndauða munnskæður, mest hnugginn verst bruggar, frið deigja dáðragan, drap ellin sdapfella.

17 Skammkell í vöm varla, var staður snar skaða, með lygða móð rægði, menn saman skenntamur, arngeirinn firn færa, fól gerði hól skerðan, á lopt svo í steyptist, árstrauminn sár skraumur.

18. Hallgerður full flærðar, fjelhnísinn stelvísi, tvist æfði verst vöfðu, vammlífi skamm stífin, ráð bana rjeð sínum rög mönnum mjög bönnuð, í kristni frá flosnuð frægð leiðust rægð deyði.

19. þjóstólfur fast fölva, fanghróka Langbrókar, af seka lof lakur, ljet heljar net hvelja, fól Svanur vjel væni, varg óðan marg fróður, til feigðar vel vígðan, vann Rútur hann stúta.

20. Sigmundur seiglyndi, sá hafði ákrafður, níðskælda skaðvaldur, skeð flimturs með glimti, nafn sneipta nöfn

stiptar, Njáls sonum táls konan, val sendur hel hrundinn, haus var af faus marinu.

21. Geðvendur grið hrundinn, gang slókur Langbrókar, Melkólfur stal stirfinn, stund nætur mund ætu, upp brendi kapp krýndur klúr skati búr matar, hans belti flóns fyllta, fjekk lýsa hrekkvísi.

22. Ei Hrappur óhöppinn, opt sparði hvopt harður, goð brendi grið vondum, gaf þráinn af plágu, Hallgerður full færði, frigð sinar dyggð linur, gagn ringur gegnstunginn, gekk sál í stekk bála.

23. Íll dæmin öll saman, að forðast það skorðum, í hjarta óskertu urt lýta burt slítum, dug lögum daglega dáðríkum bráðlíkir, fallheilir fullsælu fríkenndir í lendum.

24 Akurs regn og ígulslón, urnis barka læti, nikra kvol minn kappasón, kvað hjá tröppu sæti.

---

Kostar óinnfest 4 skildinga.

